# LÖG

## HINS ÍSLENZKA

# BÓKMENTAFÈLAGS.

---

FJÓRÐA ÚTGÁFA,

ENDURSKOÐUÐ OG SAMÞYKT Á FÈLAGSFUNDUM 25. FEBRÚAR 1850 OG 20. SEPTEMBER 1851.

---



KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU *S. L. MÖLLERS.*

1854.

## Fyrsti Kapítuli.

### Um tilgáng fèlagsins.

1.

Það er tilgángur fèlags þessa, að styðja og styrkja íslenzka túngu og bókvísi, og mentun og heiður ennar íslenzku þjóðar, bæði með bókum og öðru, eptir því sem efni þess fremst leyfa.

2.

Fèlagið skal í ljós leiða rit þau, er samin hafa verið á íslenzku og landinu væri sómi að, einkum þegar höfundar þeirra eru dánir, og hættast er við þau muni týnast. Engu síður skal fèlagið ala önn fyrir, að skráðar verði bækur og prentaðar, er þarflegar virðast almenníngi, svo og þær, er hentugar sè við kennslu í skólanum, og enn fremur efla vísindi Íslendínga á allan hátt, sem það bezt getur.

3.

Fèlagið á að vanda orðfæri, prent og pappír á bókum þeim, sem það lætur prenta,

eins vel og kostur er á, og ekki setja hærra verðlag á þær, en ríflega svari kostnaði.

4.

Fèlagið tekur við ritgjörðum, jafnt frá utanfèlagsmönnum og þeim sem í fèlaginu eru, og launar þær eptir samkomulagi og efnum.

5.

Þegar fèlaginu eru sendar ritgjörðir til prentunar, skal kjósa nefnd manna til að segja álit sitt um þær, bæði um efni og orðfæri, svo nákvæmlega sem þeir eiga bezt kost á; svo skal og nefnd þessi stínga uppá, hverju launa skuli ritgjörðina, ef höfundurinn æskir launa, eða sá sem í hans stað kemur.

6.

Þegar höfundur, eða sá sem í hans stað er, býr í fjarlægð við aðseturstaði fèlagsins, er hann skyldur til að kjósa mann brèflega í sinn stað, hvern sem hann vill, er fèlagið megi semja við um allt það er ritgjörðum hans viðvíkur, einsog hann væri sjálfur viðstaddur.

7.

Fèlagið má engu breyta í neins manns riti, eigi heldur bæta við athugasemdum, for-

mála nè eptirmála, nema eptir bón eða samþykki höfundar, eða þess sem í hans stað kemur, á þann hátt, sem nú var fyrir mælt. Við ritgjörðir dáinna höfunda, sem enginn hefir eignarrètt til, má samt bæta skýríngargreinum eður öðrum athugasemdum.

8.

Fèlagsdeildin í Kaupmannahöfn skal á hverju ári láta prenta frèttarit um hvert ár, frá nýjári til nýjárs, um hinar helztu nýjúngar, viðvíkjandi landstjórn, merkisatburðum, búskap, kaupverzlun og bókum bæði innanlands og utan. Því riti skal fylgja greinileg skýrsla um atgjörðir fèlagsins á því ári, og skýr reikníngur um fjárhag þess, svo og fèlagatal. Frèttaritarann skal kjósa á vorfundi, og skal hann hafa lokið starfi sínu eigi seinna en í miðjum Febrúarmánuði; af frèttunum skal launa hverja örk prentaða fimm spesíum.

9.

Nefnd manna skal kjósa hvert ár á ársfundi í Kaupmannahöfn, til að meta hver önnur fylgiskjöl koma megi í rit þetta.

10.

Fèlagið skal láta birta hverja þá bók,

sem það lætur prenta, í dagblöðum og tímaritum, svo skal og semja skýrslu um athafnir og fjárhag fèlagsins á hverju ári, og auglýsa hana í frèttablöðum, en um hvern fund ef forseta þykir þess þörf vera.

11.

Forsetum er heimilt að gefa allt að 20 af hverri bók, sem fèlagið lætur prenta, bókasöfnum eða einstökum mönnum, hvar sem að eru, en þeir skýri frá á ársfundi, hvað og hverjum gefið sè.

12.

Fèlagið skal jafnan eiga fastan sjóð, og geyma vandlega og láta ávaxtast; sjóð þenna má ekki skerða, en ekki er skylt að auka hann framar en athafnir fèlagsins leyfa, og skal framkvæmd þeirra jafnan vera í fyrirrúmi, að tilgánginum verði sem bezt framgengt.

## Annar Kapítuli.

### Um lögun fèlagsins.

13.

Fèlaginu er skipt í tvær deildir, á önnur samkomustað í Reykjavík, en önnur í Kaupmannahöfn.

14.

Hvor deild fèlagsins kýs sèr fjóra embættismenn: forseta, fèhirði, skrifara og bókavörð; þessir eru stjórnendur fèlagsins.

15.

Enn fremur kýs hvor deild varaforseta, varafèhirði, varaskrifara og varabókavörð, hinum til aðstoðar, og til að koma í stað þeirra þegar nauðsyn ber til.

16.

Embættismenn og varaembættismenn skulu hafa starf sitt á hendi árlángt, og ekki lengur, nema fèlagsmenn kjósi þá aptur.

17.

Enginn má hafa tvö embætti í senn.

18.

Embættismenn skal kjósa eptir dugnaði, en ekki eptir metorðum; því má engan kjósa til embættis, sem eigi er Íslendíngur, eða þekkir Ísland, og talar og skrifar íslenzka túngu eins vel og Íslendíngur.

19.

Embættismenn eru skyldir að koma á alla fundi, nema brýn nauðsyn banni.

20.

Sèrhver embættismaður er skyldur að gjöra

fèlaginu grein fyrir embættisbreytni sinni, þegar fèlagið beiðist eða hann skilur við embætti· Afhendíngar embættis fara fram skriflega.

21.

Forseti skal sjá um, að lögum þessum sè hlýdt, og að sèrhver fèlagsmanna gegni skyldum sínum við fèlagið; hann kveður menn til funda, setur þá og stýrir þeim; hann birtir á fundum skrifleg frumvörp fèlagsmanna og brèf til fèlagsins, og sèrhvað annað, er honum þurfa þykir, hann safnar atkvæðum og segir upp úrskurði fèlagsmanna; hann skal skýra á ársfundi hverjum frá athöfnum fèlagsins og fjárhag; svo skal hann og, ásamt fèhirði, sjá um sjóð fèlagsins sem óhultast þykir og ábatamest; hann skal og gæta fjárheimtu og fjárútláta, og hafa ritað samþykki sitt á sèrhverja kröfu til fèlagsins, áður gjalda megi; hann ráðstafar bókum til prentunar með aðstoð skrifara og sèr um brèfagjörðir fèlagsins.

22.

Fèhirðir skal taka við inngjöldum fèlagsins, kvittera fyrir og hirða vandlega, borga af þeim reiknínga þá er forseti hefir skriflega samþykkt, bóka það allt, og gjöra

grein fyrir, hve nær sem forseti æskir eða fèlagsdeildin; svo skal hann og gjöra aðalreikníng á hverjum tólf mánuðum og sanna hann með kvittunarbrèfum og skjölum. Þessum aðalreikníngi láti hann í hvert skipti fylgja skuldalista, svo sem bezt verði sènn fjárhagur fèlagsins. Það skal vera skylda fèhirðis, að tilgreina við sèrhverja útgjaldagrein, til hverra fèlagsþarfa henni sè varið.

23.

Skrifari skal bóka það allt, sem fram fer á fèlagsfundum; svo skal hann og hafa dagbók og brèfabók. Hann á og að semja og rita fèlagsbrèf með ráði forseta, er ábyrgist þau, og veita viðtöku brèfum þeim er til fèlagsins koma, lesa þau og sýna forseta jafnskjótt og verður, en forseti á að lesa þau á næsta fundi. Hann skal og afhenda fèhirði nafnatölu allra fèlagsmanna, og skýra honum frá hvað hver skuli gjalda á ári hverju; svo skal hann og, sem áður er sagt, annast um prentun ritgjörða fèlagsins, með umsjón forseta.

24.

Bókavörður skal geyma bækur fèlagsins, handrit og skjöl, þau sem embættismenn ekki þurfa að hafa við hönd sèr; hann skal hafa allt bóksölu-umboð fèlagsins á

hendi með umsjón forseta, og ala önn fyrir að bækur fèlagsins sè á boðstólum á sem flestum stöðum, bæði á Íslandi og annarstaðar. Hann skal senda fèhirði reikníng um bókasölu og bókaskuldir á hverjum tólf mánuðum, og skal sá reikníngur fylgja aðalreikníngi fèhirðis. Á ársfundi skal hann og leggja fram fyrir fèlagið yfirlit yfir bækur þess, seldar og óseldar. Hann má enga bók fèlagsins ljá nema mót skriflegu skýrteini, og handrit, dýrmæt rit eða uppdrætti þó að eins eptir skriflegu leyfi forseta.

25.

Kjósa skal tvo menn til að rannsaka reikninga fèhirðis og bókavarðar; þeir skulu hafa lokið starfi sínu svo snemma, að reikníngur sè að öllu búinn undir úrskurð fèlagsins á kyndilmessufundi. Verði ágreiníngur um reikníngana, sker fèlagið úr með atkvæðafjölda, eða felur það forseta, eða öðrum, sem til þess verður kjörinn, og skulu þeir forseti og skrifari síðan gefa skýlaust kvittunarbrèf fyrir reikníngana.

26.

Fèlagsmenn eru: heiðursfèlagar, fèlagar, aukafèlagar og brèfafèlagar.

27.

Heiðursfèlaga skal kjósa eptir verðugleikum; sè þeir rèttir fèlagar, eiga þeir atkvæðisrètt. Heiðursfèlagar borga ekki tillag framar en sjálfir vilja.

28.

Fèlagar einir hafa atkvæðisorð á fèlagsfundum.

29.

Aukafèlagar eru þeir, sem hvorki tala nè rita íslenzku; eru þeir kosnir að mentun til og fèlaginu til sóma, en ekki hafa þeir atkvæðisorð á fèlagsfundum.

30.

Brèfafèlaga kýs fèlagið þá er það vill; þeir gjalda því ekki.

31.

Allir fèlagsmenn mega bera upp á fundum það er þeim þykir þarft að hugleiða, en allajafna ræður forseti, hvort til atkvæða má gánga um slíka uppástúngu fyrr en á öðrum fundi.

32.

Þeir er gjörast vilja fèlagsmenn beiðist þess skriflega, og ákveði um leið hve mikinn styrk þeir ætla að veita fèlaginu. Minnstur tillagseyrir er á Íslandi 1 rd., en 3 rdd.

í Kaupmannahöfn. Þeir sem gefa einn dal, fá fèlagstíðindin ókeypis; hinir, sem gefa þrjá dali, fá allar bækur fèlagsins sem prentaðar verða; þo skulu þeir hafa goldið tillag sitt í síðasta lagi innan ársloka, það ár sem bækurnar koma út, enda sè ekki í skuldum við fèlagið að undanförnu.

33.

Fèlagar skulu hafa goldið tillög sín fyrir hver árslok; hafi þeir ekki goldið, skal krefja þá brèflega; gjaldi þeir ekki á öðru ári skal krefja þá enn brèflega, og ef þeir hafa þá ekki goldið innan árs loka, skulu þeir vera úr fèlaginu.

34.

Nú vill nokkur segja sig úr vorum fèlagskap, gefi það forseta brèflega til vitundar, og skal hann lýsa því á samkomu, en skrifari bókar það. Sá sem ekki hefir sagt sig úr fèlaginu innan Júnímánaðar loka greiði tillag sitt fyrir það ár.

35.

Fèlagsmenn skal kalla til fundar með boðsbrèfi, og skal í því segja aðalefni þeirra mála sem forseti ber upp.

36.

Aðalfundi eiga fèlagsdeildirnar þannig: í Reykjavík tvisvar á ári, um kyndilmessuleyti og 8da dag Júlímánaðar eða næsta virkan dag, en í Kaupmannahöfn ársfund um kyndilmessu-leyti.

37.

Embættismenn skal kjósa á ársfundum; en ársfundur er í Reykjavík á 8da dag Júlímánaðar eða næsta virkan dag.

38.

Forseti kveður menn til fundar þegar honum þóknast; en skyldur er hann til þess þegar fimm eður fleiri beiðast.

39.

Þá er lögmætur fundur, þegar 9 eru á fundi, þeirra sem atkvæði eiga.

40.

Á fèlagsfundum skal allt fara fram á íslenzku; þó skal útlendum mönnum svarað á þá túngu, er þeir skilja.

41.

Svo er um atkvæði, að afl skal ráða með fèlagsmönnum; forseti ræður á hvern hátt atkvæði sè gefin; atkvæði forseta sker úr, þegar jafnmargir eru saman.

## Þriðji Kapítuli.

Um samband beggja fèlagsdeilda.

42.

Báðar deildir eru eitt fèlag, og heita báðar saman „*hið íslenzka Bókmentafèlag*“; þær hafa og hvor um sig innsigli með þessu nafni.

43.

Báðar deildir eiga einn sjóð.

44.

Deildirnar mega aldrei skiljast að. Nú losnar önnurhvor í sundur og líður undir lok, og á þá allan fjárstofninn sú, sem lengur er uppi.

45.

Deildin í Reykjavík er aðaldeild, og því er tilhlýðilegt að hún sè fremri að virðíngu.

46.

Hvorug deildin hefir ein sèr leyfi til að úrskurða um þau fyritæki, sem varða 500 dala kostnaði eða meiri, nema leitað sè samþykkis hinnar deildarinnar. Verði þá deildirnar ekki ásáttar, skal fara með sem segir í 53. grein.

47.

Að öðru leyti er hvortveggja deild jafnsjálfráð í öllu því, sem eflir aðaltilgáng fè-

lagsins; er þar þess eins að gæta, að hvor deild skýri annari frá hið hraðasta, hvað úrskurðað og gjört sè, og gætt sè þess, að báðar deildirnar verði vel samtaka í að framkvæma tilgáng fèlagsins.

48.

Hvor fèlagsdeild dæmir um þau rit, sem henni eru send, og kýs eldri rit til prentunar, ef hún vill; þau rit, sem önnur deildin hefir tekið til prentunar, má hin ekki gjöra ræk nè breyta, nema höfundur æski brèflega úrskurðar hennar eða lagfæríngar.

49.

Hvor fèlagsdeild lætur prenta rit þau, sem hún kýs, þar sem bezt þykir henta; þó skal heldur prenta og binda bækur fèlagsins á Íslandi en í Danmörku, ef því verður við komið fèlaginu að skaðlausu.

50.

Hvor fèlagsdeild hefir reikníng sèrílagi, og fer með peCnínga þá, sem henni berast í hendur, sem lög þessi fyrir segja og bezt þykir henta.

51.

Embættismenn eiga jafnan rètt hvorir í sinni deild.

52.

Hver sem er fèlagi annarar deildarinnar, er og fèlagi hinnar, þegar hann er þar viðstaddur; en sæki embættismaður annarar deildarinnar hina deildina heim, gángi hinn íslenzki á undan í virðíngu, en sá er fyrir situr gegni störfum sínum sem áður.

53.

Nú viljum vèr breyta lögum þessum eða taka upp nýjar lagagreinir, og skal bera upp skriflegt og skýrt frumvarp um það, og senda það forseta, 14 dögum áður ársfundur sè haldinn, svo forseti megi láta frumvarpið fara meðal fèlagsmanna til yfirsýndar og athugunar; fallist deild sú á frumvarpið, er það er borið upp við, skal leita samþykkis hinnar deildarinnar, og er þá gilt þegar tveir þriðjúngar allra fèlagsmanna beggja deildanna samtals, þeirra sem atkvæði gefa, hafa samþykkt það á lögmætum fundum beggja deilda; annars er því frumvarpi hrundið.

54.

Þegar skrá þessi er lögtekin í báðum fèlagsdeildum, skal prenta hana á kostnað fèlagsins, og þaraðauki danska útleggíngu sèr í lagi.